# Svar

gegn

## athugasemdum við Hagskýrslur frá Canada 1891—92.

---

Eptir B. L. Baldwinson.

---

Það hefir dregizt allt of lengi fyrir mjer, að svara flugritinu hans Halldórs Jónssonar, sem hann nefnir: „Nokkrar athugasemdir við Hagskýrslur frá Íslendingabyggðum í Canada árin 1891 og 1892“, og útbýtt var um landið í síðastliðnum mánuði með „Ísafold“ og „Þjóðólfi“. En vegna þess að jeg hefi verið á sífelldu ferðalagi í vetur, hefir mjer ekki gefizt kostur á að athuga „Athugasemdir“ þessar fyrr enn nú.

Jeg þykist geta fullvissað almenning um, að hr. H. J. muni ekki vera höfundur þessa ritlings, þótt hann hafi gerzt útgefandi að honum, því það er næstum ómögulegt, að bankagjaldkerinn sje svo snauður að praktiskri þekkingu, sem ritið virðist bera vott um að höf. þess sje. Hitt er skiljanlegra, að hr. H. J. gat glapizt á því að gerast kostnaðarmaður þessa röklausa samsetnings.

Höfundurinn finnur fyrst að forminu á skýrslum mínum, og er það einkum tvennt, sem hneykslar hann: 1. að ekki sje tiltekið hve stórt land sje hjá hverjum búanda og 2, að verði landeigna og húseigna sje slengt saman. Fyrri aðfinnslan er tilhæfulaus þvættingur, því skýrslurnar sýna nákvæmlega hve stórt land hver búandi hefir að ekru tali að undanteknum einstöku mönnum í Red Deer nýl., sem búa á ómældum löndum og nokkrum mönnum í Nýja-Íslandi. En jeg hefi gert meira. Jeg hefi sýnt, ekki einungis hve stórt land hver búandi hefir, heldur hvar í reitnum landið liggur, hvort það er norðausturfjórðungur eða suðurhelmingur o. s. frv.[1] Það er því ekki mín sök, þótt flugritshöf. hafi ekki kunnað að lesa úr tölunum í fremstu dálkum skýrslnanna og hefði verið rjettara af honum að fást ekki

---

1) Landmælingareglurnar í Canada eru svo almennt kunnar, að allir menntaðir menn ættu að þekkja þær; þær hafa verið teknar fram margsinnis í ýmsum ísl. ritum og blöðum, síðast í *Landn.* nr. 14 (okt. 1892). Börnum og unglingum og höfundinum til leiðbeiningar skal þó segja það hjer, að hverfi (township) er ferhyrnt landsvæði, sem skiptist í 36 reiti (sections), hver reitur er = 1 ferh. míla eða 640 ekrur. Hverjum reit er aptur skipt í 4 hluti eða heimilisrjettar bújörð, sem hver er = 160 ekrur. Dæmi úr „Hagskýrslunum“: Nr. 121 í Argylenýl. hefir NA$^1/_4$ í 21. reit, þ. e. norðaustur fjórðung reitsins = 160 ekrur. — Nr. 122 í sömu nýl. hefir NA$^1/_4$ í 34. reit (5 hv.), NA$^1/_4$ í 21. reit, S$^1/_2$ í 23. reit, og A$^1/_2$ í 10. reit (6 hv.), þ. e. 2 fjórðunga og 2 helminga úr reitum = 1$^1/_2$ reit = 960 ekrur.

við þetta atriði. — Annað atriðið er, að verði landeigna og húseigna sje slengt saman; þetta þykir flugr.höf. óþolandi ókostur, og er í standandi vandræðum með að geta greint þetta í sundur. En hann ætti að ráma í það, að hjer er ekki að ræða um virðingagerðir, sem Landsbankanum í Reykjavík koma við. Þar gæti það verið nauðsynlegt, að greina glögglega sundur virðing á jörð og húsum. Hjer gjörist þess engin þörf, og skal jeg benda honum á, að ef hann reiknar út verð lands þess sem hver bóndi á og dregur það síðan frá verðupphæð landeignar og húsa, þá sýnir afgangurinn verð húseignanna (verð húsa, girðinga og annara umbóta, sem á löndum kunna að vera). Ekki er nú annar galdurinn við þetta atriði. Bara að kunna að draga frá. — Með þessari skýringu vona jeg að almenningur sjái, að það tvennt, sem höf. álítur að *með rjettu* verði fundið að forminu á skýrslunum, eru atriði, sem hvergi eiga sjer stað nema í hans eigin ímyndun.

Þar næst athugar flugr.höf. tölurnar í skýrslunum og þykist finna þar aragrúa af villum eða vitleysum. Það sem hann rekur fyrst augun í er það, að margir rækti meira land en þeir hafa plægt. Í Argyle-nýl. einni segir hann að menn sjeu látnir rækta 300 dagsláttur fram yfir plægða landeign. En á hinn bóginn þykir honum það eptirtektarvert, að tala plægðra ekra sje víða langtum hærri en tala þeirra sem notaðar eru til jarðyrkju og garðyrkju. Til að sýna að þetta sje svo, tekur hann dæmi af nr. 122 í Argyle-nýl., sem hefir 110 ekrur plægðar, en ræktar að eins $20\frac{1}{2}$ ekrur. Höf. spyr hvar hinar $89\frac{1}{2}$ ekrur sjeu. Það er eins og honum sje með öllu ofvaxið að skilja, að menn geti ýmist lánað parta af sínum plægðu löndum, eða að þeir fái plægð lönd að láni, allt eftir því sem á stendur fyrir hverjum einstökum bónda, í það og það skiptið. En það er einmitt tilfellið, að menn ýmist fá lánað eða lána plægð lönd eptir þörfum, eða menn hvíla lönd sín eða parta af þeim, eptir því sem á stendur. Það er því mjög eðlilegt að það komi fyrir, að sumir sái í meira land en þeir eiga plægt, og þar af leiði að aðrir sá í minna en alla plægða landeign sína.

Vilji menn nú aðgæta skýrsluna frá Argyle-nýlendunni, þá sjest, að tala plægðra ekra er þar 8652, en ræktaðar ekrur aptur á móti eru 6822, svo að í staðinn fyrir að bændur sjeu, eins og höf. segir, látnir yrkja 300 dagsláttur fram yfir plægða landeign, þá yrkja þeir eptir skýrslunum 1830 ekrum *minna* en nemur plægðri landeign þeirra.

Höf. telur þar næst ýmsa menn í Nýja Íslandi, sem hafi svo og svo margar ekrur plægðar, en noti enga. Hjer má geta þess, að í Nýja-Íslandi er mikill hluti af plægðu landi undir túnrækt, og þótt jeg hafi ekki getið um það í skýrslunum, þá er engin ástæða að halda að menn hafi þar ekrur sínar „upp á stáss“, eins og höf. kemst að orði. Hjer á landi eru tún talin ræktað land og hefi eg fylgt sömu reglu í skýrslunum. Jeg get fullvissað hann um, að Ný-Íslendingar noti sitt yrkta land engu síður en menn í öðrum nýlendum.

Þá rekur höf. sig á Jóh. Hannesson (nr. 225) í Nýja-Íslandi og segir að skýrslurnar telji hans „núverandi eignir engar og engar eigur skuldlausar (!)“ Þetta er, eins og svo margt annað, ekkert annað enn ósannindi höf. Jeg hefi í skýrslunum samtengt með greip (parenthes) þá bræður Jóhannes og Hannes Hannessyni (nr. 225—226) í Nýja-Íslandi. Þeir eru kaupmenn á Gimli, og er summa eigna þeirra

tälin saman og færð út í einni línu fyrir báða. Þetta vona jeg að hver geti sjeð, sem skýrslurnar les, þótt höf. látist ekki skilja það. Hann hneykslast á því, að Jón Friðfinnsson í Argyle nýl. (nr. 49) skuli eiga jarðyrkjutól, er nemi að verðupphæð 6850 krónum, þótt hann ekki eigi eða yrki neitt land. — Það er nú reyndar ekki venja að skýra frá því í hagfræðisskýrslum, hvers vegna menn eigi þessar eða hinar eignir, eða hvað þeir geri með þær. Að minnsta kosti er það ekki atriði, sem skýrslusemjanda ber að gera grein fyrir. En þó get jeg skýrt höf. frá því, að Jón þessi á eina þreskivjel, og er sú vjel metin þessa virði. Hann vinnur með henni á haustin og veturna við þreskingu á hveiti bænda þar í nýlendunni. Mjer er kunnugt, að hann hefur opt fengið um og yfir 150 kr. á dag í verkalaun fyrir vjel sína með tilheyrandi áhöldum; — Jeg get þess að eins til að sýna almenningi, að Jón hefir ekki þessa vjel sína „bara upp á stáss“. — Næst verður Guðrún Jónsdóttir (Storm) (nr. 55) í Argyle nýl. fyrir höf. og segir hann að öll landeign hennar og húseign sje 1200 dollara virði eptir markaðsverði, en að eignir hennar sjeu reiknaðar á 2712 dollara. Hann vill fá að vita, hvaðan hún fái 1512 doll., sem hún sje talin að eiga fram yfir virðingarverð landeigna og húseigna. — Svarið finnst í „Landnémanum“ nr. 6 (febr. 1892). Þar er skýrt frá að Guðrún hafi fengið hveiti upp úr þeim 63 ekrum, sem eru plægðar á landi hennar, sem hún hafi selt fyrir 1512 dollara. Þetta hveiti átti hún í kornhlöðu sinni, þegar jeg tók skýrslu hjá henni í desember 1891. Jeg virti það til peninga eptir þáverandi markaðsverði og lagði verðupphæð þess, doll. 1512, saman við verðupphæð landeignar og húsa hjá henni og fjekk þannig út doll. 2712, sem skýrslan sýnir að hún eigi. — Í þessu sambandi vil jeg geta þess, og biðja lesendur að virða á betra veg, að mjer láðist að geta um það í athugasemdunum aptan við skýrslurnar, að þótt jeg hvorki teldi innanstokks búshluti eða peninga bænda með eignum þeirra, þá taldi jeg allstaðar þær korntegundir, og aðrar afurðir, sem menn áttu í hlöðum sínum, virti þær til peninga og taldi það með í dálkinum „eignir alls“ og því líka í dálki skuldlausra eigna. Af þessu getur stafað sú ónákvæmni, sem menn þykjast verða varir við í útreikningnum.

Næst finnur höf. menn í Þingvalla- og Red Deer nýlendum, sem eiga jarðyrkjutól en ekkert yrkt land, og ræður hann af því, að mennirnir sjeu ekki með rjettu ráði. En honum mun ekki hafa þótt nauðsynlegt, að benda almenningi á það, sem skýrslurnar sjálfar sýna, að þessir menn byrjuðu búskap 1891, einmitt sama sumarið sem skýrsla þeirra var tekin. Þessir menn höfðu því ekki haft mikinn tíma til að rækta lönd sín, þar sem þeir voru ekki búnir að vera nema fáar vikur á þeim, en þeir höfðu orðið að byggja sjer hús, fjós, hlöður o. s. frv., girða lönd sín o. fl. þ. h. Jeg efast ekki um, að jarðyrkjutól þeirra muni koma þeim að góðum notum með tímanum, eða svo fljótt sem þeir fá tíma og tækifæri til að brúka þau. — En um þá sem búa í Nýja Íslandi er það að segja, sem jeg líka tók fram í athugasemdum aptan við skýrslurnar, að þau áhöld öll, er þeir nota við fiskveiðar sínar, eða verðupphæð þeirra, er talin í dálki jarðyrkjutóla. Það er því ekkert undravert, þótt menn í þeirri nýlendu, sem stunda fiskveiðar, sýnist eiga allstórar upphæðir í verkfærum, þótt þeir yrki ekki hveiti eða aðra akra.

Á 4. bls. í flugritinu, undir tölulið 6., er varið löngum kafla til að sýna fram

á, hrð „tortryggilega mikill" verðmunur sje á landeignum og húseignum bænda í Argyle nýl. Að visu játar höf., að hann sje ekki fær um að sjá af skýrslunum hinn mikla mismun sem er á stærð landanna, en á hinn bóginn álitur hann það varði minnstu, þótt maður, ef til vill, hitti ekki á alveg rjettar tölur. Svo setur hann 10 menn í tölu til að sýna þennan mismun og tekur náttúrlega þar með til þess að samanburðurinn geti orðið sem allra álitlegastur og svarað bezt tilgangi hans, einn af efnuðustu bændunum, hr. Sigurð Christopherson (nr. 122), sem á 960 ekrur af landi með ágætum byggingum og öðrum stórum umbótum, og á auk þess bæði lóðir og hús í bæjunum Baldur og Melita í suðvestur-Manitoba. Þennan mann ber höf. saman við Jóhann Gottfred Jónasson (nr. 7), sem ekki átti svo mikið sem eina einustu ekru af landi, en bjó á skólalandi í 11. reit og átti þar hús sem var metið $ 300, eins og skýrslurnar sýna. Hefði höf. haft nokkra hugmynd um skiptingu landsins og vitað hver lönd tilheyra skólum (sem á þeim tíma voru óseld í þeim parti fylkisins) og hver Hudsons-flóa fjelaginu, hefði honum að líkindum ekki komið til hugar að gera slíkan samanburð, enda gat hann vitað að Jóhann átti ekkert land, ef hann hefði lesið 4. tölulið í athugasemdunum aptan við skýrslur mínar, sem berlega tekur það fram, að búandi eigi ekkert land, þar sem minna enn $ 400 sje talið í dálki landeigna og húseigna, þótt hann annars eigi húseignir og hafi bú. Annar eins samanburður og þessi hjá manni, sem vill láta telja sig ritfæran og reikningsfæran, er svo fúlalegur, að ekki tekur tali, og sýnir annaðtveggja, að höf. álitur lesendur sína eintóma bjána eða að hann er það sjálfur. Að síðari tilgátan sje rjettari, ræð jeg af því, að hann álitur að virðing á löndum bænda sje að eins miðuð við ræktaðar ekrur, án tillits til hve stór hin óræktuðu lönd þeirra sjeu og það sem merkilegast er, að bóndinn sje talinn því meira virði sem hann á minna ræktað land. Höf. hefir auðsjáanlega ekki vit á að taka tillit til þess. Sem þó allir aðrir hljóta að vita, að hús og aðrar umbætur á löndum bændanna eru mjög mismunandi að dýrleika. Hann segir sjálfur, að sú viðbára, að verðmunurinn liggi í misstóru óræktuðu landi, sje með öllu þýðingarlaus, því að óræktað land, hvar í heimi sem er, sje og verði einskis virði, meðan hver sem vill getur fengið það fyrir alls ekkert.

Til leiðbeiningar þeim sem ekki þekkja „landtökulögin" skal þess getið, að allir reitir með jafnri tölu eru ætlaðir fyrir heimilisrjettarlönd að undanteknum reitunum 8 og 26, enn reitir með oddatölu eru seldir; þegar nú reitirnir með jöfnu tölunum eru uppteknir, þá eru menn, ef þeir vilja setjast að í sama byggðarlagi, neyddir til að kaupa oddatölureitina, þótt þeir sjeu lakari að landgæðum. Jeg get sannað með svörnum vottorðum, að seld hafa verið og auðgert er að selja lönd í byggðarlögum í Canada fyrir mikla peninga, jafnvel meðan hver sem vill getur fengið þar lönd fyrir ekkert. En þá er líka rjett að taka það fram, að þau hin sömu lönd sem seld eru, *þau* fást ekki fyrir ekkert. En við erum að ræða um Argyle nýlenduna. Þar hafa verið seld lönd fyrir 2 árum fyrir $ 10 *hver ekra* óbrotin og óyrkt og þó gátu menn á sama tíma fengið nóg lönd fyrir ekkert, enn vitanlega ekki innan takmarka þeirrar nýlendu. Sama er að segja um hina nýju Melita nýlendu: að þar voru seld lönd á s. l. ári fyrir $ 5 ekran, samhliða við og engu betri en lönd þau sem Íslendingar tóku þar ókeypis á sama tíma. Það er því auðráðin

gáta, sem höf. grillir ekki i, að verð landanna er að miklu leyti — og jeg vil segja að mestu leyti — komið undir afstöðunni, að þeim sje vel í byggð komið, þau sjeu nærri járnbraut, markaði o. s. frv.

Þegar höf. hefir skapað sjer samanburð á hveitiekrum Sigurðar og Jóhanns, reynir hann aðra reikningsaðferð til þess að almenningur skuli sjá að hann sje þó vaxinn því að ræða þetta mál, og ber næst saman Sigurð og Gísla Torfason. En í þessu tilfelli ber hann saman — ekki hveitiekrur þeirra, heldur *plægðar ekrur óræktaðar*, og enn ber hann saman Sigurð og Björn Bergfjörð og reynir þriðju aðferðina, ber þar saman *hveitiekrur* Björns við *óyrktar ekrur* Sigurðar. Þetta er í fyrsta sinni, að jeg hefi sjeð þess dæmi, að nokkrum manni hafi komið til hugar að virða lönd með því að byggja virðinguna á plægðum ekrum ónotuðum o. s. frv. Jeg get ekki neitað því að mjer finnst flugrit H. J. vera ærið fátækt af skynsamlegum hugmyndum. Og þessi hugmynd um virðingu á löndum eptir fjölda af plægðum ekrum ónotuðum er eitt af því bágasta í ritinu. En máske bankinn virði eigur manna eptir því hve margar krónur þeir eiga, sem þeir nota ekki? Og er þá ekki að undra, þótt hann taki ekki skuldlausar fasteignir bænda gildar sem veð.

Mismunurinn á land- og húseign Jóhanns Straumfjörðs (nr. 1 í Nýja Ísl.) og Gunnsteins Eyjólfssonar (nr. 65) liggur mest í húseign, því Jóhann á stórt og vandað steinsteypuhús, sögunar- og mölunarmylnur, en Gunnsteinn á gamalt timburhús; og er þetta sú eina skýring, sem jeg álít nauðsynlegt að gefa um það mál, því í rauninni er ekki heimtandi af neinum, sem semur hagfræðisskýrslu, að hann viti eða muni svo árum skiptir út í yztu æsar um eignir og hag hvers einstaklings.

Þá fer höf. að athuga útreikninginn á skýrslunum, og verð jeg þá að biðja lesendur að muna eptir því, sem jeg tók fram hjer að framan, nefnilega, að þar sem bændur áttu hveiti eða aðrar korntegundir eða afurðir, virti jeg það eptir markaðsverði því sem þá gilti, og taldi svo verðupphæð vörunnar í dálki eignanna eins og áður er sagt. Þetta hefir óefað afvegaleitt flugritshöfundinn í útreikningum sínum.

1. dæmi höf. er nr. 1 í Argyle nýl., Eyjólfur Snædal. Hann á, eptir höf. reikningi $ 569,50 minna en skýrslurnar telja. En höf. gætir eða getur eigi þess, að Snædal átti hveiti úr 60 ekrum og hafra úr 20 ekrum. Hveitið, gitt, 30 bush. af ekrunni, af 60 ekrum = 1800 bush. á 60 c. gerir $ 1080; hafrar 20 ekrur. 45 bush. af ekrunni á 20 c. = $ 180, eða alls = $ 1260, sem gerir miklu meira en jafna þetta skakkafall, sem höf. talar um, og kemur það af því hjá þessum manni eins og sumum öðrum bændum í nýlendunum, að þeir biðu á því ári, er skýrslan var tekin, nokkurt tjón af sumarfrostum og hagljeljum; getur því uppskeran ýmist hafa orðið minni enn 30 bush. af ekrunni til jafnaðar hjá honum, eða að öðrum kosti selzt fyrir lægra verð enn hjer er greint, þó að meðaltalið í nýl., bæði að vöxtum og verði, væri þetta.

2. dæmi höf. er nr. 14 (Halldór G. Jónsson). Þar munar $ 1716. Halldór átti hveiti úr 98 ekrum og hafra úr 20 ekrum. Geri maður nú 30 bush. af hverri hveitiekru á 60 c. hv. bush., þá verða það $ 1764, sem meira en jafnar þann mismun, sem höf. talar um, án þess að reikna hafrana að nokkru. Þar að auki má geta þess að Halldór fjekk meira en 30 bush. af ekrunni það ár sem skýrslan var tekin, og seldi hveiti sitt fyrir 71 c. hvert bush. (sjá *Landnemann* nr. 6. Febrúar 1892).

Alveg sama er að segja um Benidikt Einarsson og Þorstein Jónsson, að hveiti, þeirra og korntegundir gera meira enn jafna upp þann mismun, sem höf. talar um.

Jeg skal nú láta ósagt, af hverju mismunurinn stafar hjá Eiríki Bjarnasyni doll. 144 og Birni Þorleifssyni doll. 20, því jeg man ekki svo nákvæmlega um hagi þeirra. Að vísu geta staðið doll. 90 í höfrum hjá Eiríki, en um það þori jeg ekkert að fullyrða. Hitt er víst, að bæði Eiríkur og Björn eiga meiri eignir en talið er í skýrslunum.

Gunnlaugur Sigurðsson (39 í Red Deer nýl.) segir höf. að eigi 610 doll. minna en skýrslurnar telja. Þetta er mjer að kenna. Gunnlaugur situr á ómældu landi, sem hefði átt að meta $ 800, en sem jeg hefi ekki aðgætt að færa út í þann dálk, sem sýnir verð landeignar og húsa, sem þá hefði aukizt, sem því svarar.

Björg Jónsdóttir (nr. 216) er talin að eiga eina kú á $ 50; kýrin hefir ekki verið virt meira enn $ 30, en konan hefir sjálfsagt átt $ 20 virði í vörum eða eigum, sem hvorki voru búshlutir eða peningar, en sem ekki gátu staðið í öðrum dálk en eigna dálkinum.

Höf. segir að jeg telji:

1. hjá nr. 7 í Vatnsdalsnýlendu: 1 kú, 1 uxa = 3 nautgripi. Hjer eiga að vera 2 uxar, eins og sjá má af samlagningunni neðan við skýrsluna frá þeirri nýlendu.
2. hjá nr. 25 í Álftavatnsnýlendu: 1 kýr = 2 nautgripir. Hjer á að vera: 1 kýr + 1 ungneyti = 2 nautgripir.
3. hjá nr. 36 í sömu nýlendu er talið: 3 kýr, 2 uxar, 2 ungneyti = 10. Þetta á að vera 3 kýr, 2 uxar, 5 ungneyti = 10.

Hin áðurgreindu 3 dæmi, sem flugritshöf. og blöðunum hefir orðið svo mikill matur úr, eru prentvillur, enda má sjá af samlagningunni neðan við skýrslurnar að svo er. Alveg sama er að segja um akuryrkjutölin í Argyle nýlendu. Þau eru metin á 45,990 dollara, en það hefir misprentazt í efnahags yfirlitinu þannig að þar standa 45999 doll. eða 9 doll. meira en vera á. En í samlagningunni neðan við yfirlitið eru þau talin 45990 doll., sem er rjett. Jeg álít að þó rjett sje að benda á þessar skekkjur, sem að eins eru prentvillur, þá sje rangt að gera eins mikið veður út af því eins og flugritshöf. og blöðin hafa gert.

„Meira er þó það varið", segir höf., „að skuldlausar eigur í öllum nýl. til samans eru í yfirlitinu taldar 905.375 doll., en eiga að vera eptir sjálfu efnahags yfirlitinu doll. 860,095. Mismunurinn er 45,280 doll. eða kr. 169,800. Hjer væri nú skakkafall, sem vert væri um að tala, ef höf. færi með rjett mál, en hann lendir hjer í sömu villu, sem í hinum einstöku dæmum, að hann metur hveiti og aðrar korntegundir að eigu. En þegar þess er gætt, að í öllum nýl. voru undir hveiti 6439 ekrur og 30 bush. af ekrunni á 60 c. bush. = $ 115902, undir höfrum 1068 ekrur, 45 bush. af ekrunni á 20 c. bush. = $ 9607, og undir byggi 170 ekrur, 40 bush. af ekrunum á 35 c. = $ 2380 eða alls korntegundir $ 127, 880, vona jeg að þessi upphæð geti jafnað þann halla, sem höfundinum sýnist vera á þessu, og er þá eptir $ 82,600 eða kr. 308,950, sem svarar því sem dregið hefir verið frá fyrir:

*a*, kostnaði við uppskeruna, *b*, selda uppskeru, *c*, tjóni sem bændur hafa beðið á þessum árum af sumarfrostum og hagljeljum, og *d*, því sem uppskerumagnið og markaðsverð kann að hafa verið minna, vegna skemmdanna, en að framan er talið.

Síðasta atriðið í athugasemdum höf. er að jeg hafi talið tvisvar stofnfje manna, það er að segja, að jeg hafi ekki dregið það frá skuldlausum eignum, þegar jeg reiknaði út árlegan gróða bændanna. **Þetta er ekki satt.** Hefði jeg eins og hann segir deilt samanlögðum búskaparárum al'ra bændanna í skuldlausar eignir þeirra, 905375 doll., þá hefði komið út sem meðalárlegur gróði hvers búanda 397 doll. 97 c., eða hartnær **100 kr. meira en jeg hefi gert það.**

Höf. segir, að jeg hefði átt að deila samanlögðum búskaparárum í skuldlausar eignir að frádregnu stofnfje, sem er 840188 doll. Gjörum nú eins og hann segir, kemur þá út 269.31 doll., sem margfaldað með 3 kr. 75 au. gerir meðalárlegan gróða 1384.92 kr. sem er meira en jeg hefi talið. En taki maður að eins gullsígildi dollarsins og deili með 37,315 þá verður meðalárlegur gróði 1378.08. Meðaltalið af þessum upphæðum hefi jeg nú tekið, hvort sem það kann að álítast rjett eða rangt, og það meðaltal er eins og jeg hefi sagt í skýrslunum **1381.00** kr. rúmlega.

Þar er nú komið höfuðatriðið í skýrslunum, þessi hneykslunarhella, sem blöðin hafa sífelt steytt sig á í vetur, bara til að villa sjónir manna og leiða athygli almennings *frá* þeim mest varðandi sannleika sem í skýrslunum er fólginn, sem er meðal-árlegur gróði bændanna og þeirra skuldlausu eignir. Annars er aðalatriðið ekki um árlegan gróða, því það er í rauninni enginn partur af hagsskýrslunum, heldur að eins ályktun, sem á þeim er bygð. Mergurinn málsins er skuldlausar eignir hvers búanda, sem jeg hefi talið að vera **5273 kr.** samkvæmt skýrslunum. Sá liður stendur óhrakinn sem annað.

Vitanlegt er að mikið af þessari upphæð er innifalið í löndum, því eins og tekið er fram í athugasemdum aptan við skýrslurnar, er land hvers búanda talið eign hans, þótt hann væri ekki búinn að vera á því lögákveðinn tíma — 3 ár — þegar skýrslurnar voru teknar. En það vita líka allir, sem þekkja landtökulögin í Canada, að maður öðlast svo traustan eignarrjett á því landi, sem hann tekur, óðara en hann tekur það, að jafnvel stjórnin getur ekki tekið það af honum, svo lengi sem hann kærir sig um að sitja á því. Ekki er heldur hægt að taka það af honum upp í skuldir nema því að eins að hann veðsetji það. En veðsetningarrjettinn fær hann vanalega að eins með lögformlegu eignarbrjefi (Homestead Patent) frá stjórninni í Canada, þegar hann hefir fullnægt lögákveðinni þriggja ára ábúð og vissum umbótum á landinu. Jeg hefi því skoðað það í fyllsta máta rjett, að reikna mönnum heimilisrjettar lönd þeirra sem eign, jafnskjótt sem þeir voru seztir að á þeim; jafnvel veðsetningarrjettinn geta landnemar stundum fengið undir eins og þeir setjast að á landi sínu. Þetta hafa margir fengið í Þingvalla nýl., þar á meðal þeir Klemens Jónasson og Böðvar Ólafsson. Þeir fengu hvor um 1500 kr. lán hjá járnbrautarfjelagi einu jafnskjótt sem þeir höfðu tekið lönd sín, og þetta sannar það, að löndin í þeirri nýlendu eru ekki alveg einskis virði eins og höf. vill gefa í skyn. Jeg veit ekki til að það tíðkist neinstaðar í heimi nema í Canada, að menn geti fengið mörg hundruð króna lán út á jarðir, sem eru óræktaðar, þótt þeir hafi tekið þær í því skyni, að vinna sjer eignarrjett á þeim. Þetta sannar tvent: það

fyrst, að eignarrjetturinn má kallast tryggur, þar, sem landnema er leyft að veðsetja land sitt undir eins, og í öðru lagi það, að peningaláufjelög líta svo á, að löndin sjeu nokkurs virði og lána því peninga gegn þeim.

Viðvíkjandi dæmum þeim sem blöðin hafa hent á lopti og flugritshöf. eptir þeim um einstaka menn í nýlendunum, sem lausar fregnir eða ónafngreindir brjefritarar að vestan segja að hafi flosnað upp eða komizt í þröng síðan skýrslurnar voru teknar, skal jeg að eins svara því, sem öllum ætti reyndar að liggja í augum uppi, að skýrslurnar gilda að eins fyrir þann tíma sem þær eru teknar á og geta ekki borið með sjer þær breytingar sem síðan hafa orðið á efnahag bændanna. Hversu vel sem efnahagurinn stendur, getur það æfinlega komið fyrir, að einstakir menn bíði hnekki, annaðhvort fyrir vanhyggni eða önnur atvik, og það á skemmri tíma en líður frá því skýrslurnar eru teknar til þess frjettirnar eru skrifaðar hingað til lands. En sem betur fer munu þessi dæmi ekki vera mörg. Enda er enginn efi á því að flestir bændur í nýlendunum hafa á sama tímabili aukið efni sín margfalt meira en hinir einstöku kunna að hafa tapað. — Þessi atriði koma því alls ekki skýrslunum við, og fer jeg því ekki fleirum orðum um þau.

Jeg þykist nú hafa svarað svo öllum atriðum í „Athugasemdum við Hagskýrslurnar“ að ekki sje þörf á ýtarlegri andsvörum að sinni. Jeg hefi hrakið greinilega hvert einasta atriði, sem höfundurinn finnur að, og sýnt fram á að öll þau mörgu dæmi af einstökum mönnum, — sem hann álítur tortryggileg eða beinlínis röng — eru yfir höfuð alveg rjett, svo kalla má að ekki sje eptir heil brú í öllum þessum köngulóarvef höfundarins. Fyrir þeim 2—3 atriðum, sem jeg játa að eru ónákvæm í Hagskýrslunum, hefi jeg gert svo góða grein, að það nægir hverjum skynsömum lesanda.

Þótt jeg játi að Hagskýrslurnar hefðu mátt vera nákvæmari í sumum atriðum, einkanlega ef þær hefðu verið stærri, held jeg þó að jeg megi fullyrða, að jafn nákvæmar hagskýrslur sömu tegundar muni varla hafa komið fram í nokkru landi, og þann vitnisburð hafa þær einnig fengið í Canada. Að skýrslunum verði almennt trúað hjer á landi ræð jeg af því, að hvar sem jeg hefi ferðast um Ísland í vetur hafa menn ýmist sagt mjer frá, eða sýnt mjer brjef frá ættingjum eða vinum þeirra vestra, sem öll hafa ýmist staðfest skýrslurnar eða talið efnahaginn betri enn þær gera; og kemur það ófureðlilega til af því, að sum brjefin eru rituð *eptir* þann tíma sem skýrslurnar vóru teknar og sýna því aukinn efnahag brjefritenda. Þótt einstöku menn kunni að finnast, sem vefengja skýrslurnar, munu þó flestir verða til þess að trúa brjefum ættingja og vina að vestan, enda skildist mjer af viðtali við menn út um land, að almenningur væri ekki í neinum efa um, í hvaða tilgangi flugrit þetta hefði verið samið og útbýtt með „Ísafold“ og „Þjóðólfi“.

Höfundinum er því óhætt að yrkja upp á nýjan stofn, semja annað flugrit, því „betur má ef duga skal“.

---

Reykjavík 1893. — Fjelagsprentsmiðjan.

